EINAR P. JÓNSSON:

# ÖRÆFALJÓÐ



WINNIPEG, MANITOBA

KOSTNAÐARMAÐUR: ÞORSTEINN ODDSSON

1915.

*Minningu*
*móður minnar*
*helga ég þessi ljóð.*

# ÍSLAND.

---

Sviptigna land með ný og fornhelg fræði,
framsóknar-land með æfintýr og kvæði. —
Ungir sem gamlir falla þér að fótum
flytja þér lof af hjartans instu rótum.

Elskaða land með fjallabarminn breiða,
brosandi land með tignarsvipinn heiða.
Þú hefir yljað æskuvonum mínum,
unaðslegt væri að geta hlynt að þínum.

Heilaga land, í hjörtum þinna sona
heimur er opinn nýrra sólskins vona; —
vona sem eiga' að öðlast fullan blóma
okkur og þér til heilla gagns og sóma.

Framtíðar land þinn fána láttu skína, —
fáninn skal öllum þjóðum rétt vorn sýna.
Undir því merki eigið þér að verjast
íslenzku hermenn fæddir til að berjast!

---

## ÆTTJARÐARVINURINN.

---

Í fátæklings-kytru 'ann kúrir,
en kátur þó er hann og frjáls.
Því aldregi kóngsnáðar krossar
komu við brjóst 'ans né háls.

Þótt svangur hann sæti þar löngum,
hann söng þar sín dýrustu ljóð
um frelsisins víðsýni og vonir,
og vor yfir landi og þjóð.

Skap hafði 'ann ei til að skríða,
því skipar hann úæðra bekk.
Hann gat ekki lífinu lifað
ef landið hans fært var í hlekk.

En hefði 'ánn skriðið sem hinir
og hrakyrt sitt ættland og þjóð.
Þá sæti hann skarlati skrýddur
í skrauthöll við embætti góð!

Heill sé þér göfuga hetja,
haltu þitt veglega skeið.
Þú ber fram þjóðernismerkið
og þér fylgi' eg glaður á leið!

---

# KOTIÐ MITT.

---

Lengst fram í þröngum og djúpum dal
við dverganna hljóðskraf og fossatal,
þar skógblærinn andar frá skrúðgum hlíðum
og skemta sér hjarðir tíðum,
er kotið mitt lága' í klettasveif
kafið í hríslum fríðum.

Við laufgaðar bjarkirnar leik ég mér
og laufskálahátíð er dagur hver,
sem nýt eg að fylztu við fjallsins rætur
þars friðurinn drotnar mætur,
og gefur mér efni' í unaðsdraum
til inndællar, þráðrar nætur.

---

Handatök voldug þar vart má sjá,
því veikburða' er sá, sem kotið á,
hann vildi þó veg þess hærri.
Og ánægður blundaði' hann síðsta sinn,
sæi' hann að ræktaði bletturinn
væri' aðeins örlítið stærri.

Þótt dalurinn hans sé svo þröngur þar,
og þyrpist skuggar um hlíðarnar
í allskonar undramyndum.
Í einveru sinni hann finnur frið,
það fær honum gleði að sólskinið
er ennþá á efstu tindum.

---

## BLÓMIN MÍN.

Eg söng um lilju og lækjarnið
og ljómandi sumardaginn
og sólroðinn, bláan sæinn.
Um heiðasvananna sæluklið —
og sumarið blíða' og vorsins frið
og fjallhreina, frjálsa blæinn.

Með eldheita, vængstyrka æskuþrá
á angandi beði rósa,
dvaldi' eg um daga ljósa.
En nú eru blómin mín bliknuð strá,
sem blakta í gustinum til og frá
og eiga' aðeins eftir að frjósa!

Í bernsku hugði ég blómin mín
blómguðust alla daga —

í gróandi, grænum haga.
Senn hjúpar þau vetrarins helkalt lín. —
Hálfvegis áþekk og mín og þín
er þeirra æfisaga.

---

## STJARNAN.

Ljúfa stjarna ljáðu mér
lítinn neista' af kyndli þínum.
Bros þitt fylling inndæl er
alls hins þráða í sálu mér.
Ef að til þín eitthvað sér
æ er ljóst á vegi mínum.
Ljúfa stjarna ljáðu mér
lítinn neista' af kyndli þínum!

Þú varst eina yndið mitt
allar þungar vökunætur.
Fyrir brosið fagra þitt
feginn gæfi' eg hjarta mitt.
Minn á andinn óðal sitt
inst við þínar hjartarætur.
Þú varst eina yndið mitt
allar þungar vökunætur!

# DÍSA.

---

Alveg ertu Dísa
einstök perla,
ólík að flestu
öðrum konum.
Auðug af hreinskilni
og hluttekningu,
en blásnauð af hræsni
og hégómleik.

Fögur ertu víst,
en fegri sumar
konur mér fundust
við fyrstu sýn.
Því veldur göfgi þín
að þú virðist mér,

sem gyðja gullfögur
frá Gimlis-sölum.

Aldrei er í hug mér
svo heldimm gríma,
að rödd þín ei rjúfi
rökkurtjöldin.
Allt eins og vordögg
ungu laufi,
eru mér falslausu
orðin þín.

---

## STJÖRNUHRÖP.

Von er þótt mér væri' í nöp
við Völund reikistjarna.
Að stöðva' ei svona stjörnuhröp,
stjarnan ein féll þarna.

Önnur stjarna inndæl skein,
en er nú horfin sýnum.
Og núna steyptist ennþá ein
af ástarhimni mínum.

Oft og títt á einan mig
hún augum sínum rendi.
En þegar hún féll um sjálfa-sig,
sviðastings ég kendi.

Eg er líka einn af þeim
Adams veiku börnum,
sem nota þenna nægta heim
og njóta góðs hjá stjörnum.

Eg elska þeirra augnavald,
en ekki er það hentugt börnum.
Og ólíkt minna uppáhald
eg hefi' á fastastjörnum.

---

## DÓMARINN.

Þú dæmir djarft og hart
og dæmir helzt til margt,
en þér er reyndar farið eins og flestum.
Í dag við dómstólinn
þú dæmdir bróður þinn,
en ert þó sjálfur búinn sömu brestum.

# ÚR BRÉFI.

Þýngst mér varð um þenna óð, —
þú ert horfin sýnum.
Æskudrauma dauðablóð
drýpur úr penna mínum.

## Á LEIÐI GÓÐS DRENGS.

---

Yfir þér er enginn kranz
og illa hlaðið leiði.
Því fyrir heill þíns föðurlands
félstu á bezta skeiði.

---



# STAKA.

Dæmdu' ekki skýið er skygði á sól,
í skugga síns lögmáls það birtuna fól.
Er feykir því aftur hinn frelsandi blær
þú fyrst getur metið hvað sólin er skær.

## SUMARVÍSUR.

---

Roðar tinda sumarsól,
sindrar gull á vogi.
Hjúpar jökla hvítan stól
helgur sagna-logi.
Mér finst sem allt mér opni veg
og yfir hafið kæmist ég
í einu árar-togi.

Hljómar loft af svanasöng,
syngur við í fjöllum.
Blandast fossa brimsog löng
blómahvísli' á völlum.
Af lífi titrar lilja hver,
og lækir glaðir steypa sér
af brattra hlíða hjöllum.

Allar svæfir sorgirnar
sumardísin fögur.
Sól um brekku-brúnirnar
bindur geislakögur.
Í lofti þýtur ljúfur blær,
á laufsins hörpustreng 'ann slær
og segir fagrar sögur.

---



## SVANUR AÐ DEYJA.

---

Þökk fyrir sönginn svanur minn —
sumartónana alla.
Varla hélt ég að vegurinn
væri á enda í þetta sinn,
heyri eg þó að dauðans klukkur kalla.

Bilað er söngva-brjóstið þitt,
brostin röddin snjalla.
Hlífðarlaust dauðinn heimtar sitt,
nú heimtar 'ann vænsta ljósið mitt. —
Tjöldin fyrir lífsins leiksvið falla!

Sé eg nú hvar sólin rjóð
sígur að baki fjalla.
Illt er að hafa óstyrk hljóð,

eru þó verri ramfölsk ljóð.
En þú hefir sungið ófalskt fyrir alla.

Deyjandi geisla gullin-rún
glitrar á tindum fjalla.
Haustnóttin faðmar holt og tún.
Nú hefir söngvari lokað brún,
er þorði að kveða ófalskt fyrir alla!

---

## NÆTURVÍG.

Dóttir Njörfa' í drunga-skapi
dökkar lætur síga brýn. —
Stormaflog í fjöllum hvín.
Standa' á öndu urð og stapi,
öldu-dróttins klædd í lín.

Örlagabjörgum undir köldum
óspart gerast næturvíg.
Flest eru bjargráð fyrir gíg.
Grimdarhljóð frá Gýmis-öldum
glymja vítt um foldarstíg.

Seglakuggur siglubrotinn
sífelt þokast ströndu nær.
Framan og aftan yfir þvær.

Skipshöfn öll að orku þrotin,
engu lengur stjórnað fær.

Boðar rísa hærra' og hærra,
hamast litla kuggnum á. —
Augnablik eru eftir fá.
Ólag nýtt og annað stærra
eftir skilur fleka smá.

Slotar aðeins ögn í bili. —
Urðarmáni rofs um skjá
lítur sævot líkin á,
rekin upp úr hrannarhyli
hrufluð, þrútin, grett á brá.

Brakar hátt i bjargaþili,
bylgjufjöll jafn hvelfd og há
fyrri ekkert auga sá.
Heillast lík af hranna-spili
og hverfa' á ný í myrkan sjá!

---

## MINNI AUSTURLANDS.

(Sungið í Rvík 1913).

---

Hugur leitar heim í kvöld,
heim til okkar gömlu fjalla.
Þar sem unun ótalföld
æskulífs vors skreytti tjöld.
Gleðin sjálf þar sat við völd,
sólskin lék um grund og hjalla;
Hugur leitar heim í kvöld,
heim til okkar gömlu fjalla!

Þú ert altaf efst og fyrst
Austurland í huga mínum!
Oft þótt séu orð þín byrst,
enginn getur ljúfar kysst.
Himnaríkis heimavist
held ég skáki' ei gæðum þínum.

þú ert altaf efst og fyrst
Austurland, í huga mínum!

Þú átt hjörtu okkar öll
Austurland í fórum þínum.
Þú átt dali' og fossaföll,
fagra heiði, grænan völl.
Há og svipvæn hrikafjöll
hjúpuð mjallakyrtlum sínum.
Þú átt hjörtu okkar öll
Austurland í fórum þínum!

---

## HJARTA MITT OG HARPA.

(Thomas Moore).

---

Þú veist að lítinn á ég auð,
en allt þér gefa' eg vil.
Mín hörpuljóð og hjartað með,
ég hefi' ei annað til!

Mín strengjaljóð þótt veik sé víst
ég vel samt handa þér.
Og hjartað sem af ástaróð
og eldi þrungið er.

Þótt hörpuljóðin litlu mín
ei lýsi himininn.
Þau varpa máske björtum blæ
á brúna-himin þinn.

Og skyldu sorgir sverfa að
og sækja heim til þín,
þá vildi' eg gætu verndað þig
hin veiku söngljóð mín.

Þú veist að lítinn á ég auð,
en allt þér gefa' eg vil.
Mín hörpuljóð og hjartað með,
ég hefi' ei annað til!

---

## Í DÖGUN.

Ljósrákin hækkar í austurátt,
enn er þó vesturloftið blátt
og stjörnur á himni heiðum.
Mér ægir ei hót þetta eyðihjarn,
áfram ég dansa sem fótlétt barn
eftir fannanna bungum breiðum.

Fram, eftir hjarninu hvet ég spor,
nú heiti' eg á vonanna sigurþor
og æskunnar krafta-kyngi.
Sú leið sem ég aleinn ætla mér
er örðug hverjum sem hana fer,
en örðugust einstæðingi!

Smásálir ætluðu að aftra mér,
og atyrtu leiðina sem ég fer

og þöktu 'ana þyrnisveigum.
Þær hafa nú uppskorið hefnda gnótt —
af heiðblámans lind drekk ég fjör og þrótt
í lífgandi, löngum teygum.

II.

Í huganum eygi ég undrafjöll,
ofin rósum og drifin mjöll
gnæfa við himinheiði.
Þar veit ég í sífellu sólin skín,
þar syngja vorfuglar ljóðin sín
frjálsir á fögrum meiði.

Þar óma svanvængjuð ástarljóð
og útvalin byggir landið þjóð,
er sannleikans sigur þekkir.
Þar hylja' ekki manngullið myrkur-ský. —
Hvort mun ekki sælt á landi því,
er bróður sinn enginn blekkir?

Ég öfunda' ei þann sem á undan mér
kemst ef til vill stundum og fleira sér, —

því hendingar höppum ráða.
Ég veit að þeim einum auðnast kann,
sem aldrei brá trygðum við sannleikann
að líta' inn í landið þráða!

---

## SVANUR.

---

Syngdu, syngdu svanur minn — —
sól er á hverjum tindi.
Oft ég hlaut við hljóminn þinn
hjartans frið og yndi.

Þarna' eru' okkar bernskubú, —
blessuð vötnin líka.
Og heiðina eigum eg og þú
og enga finnum slíka.

Þar er allt sem unnum við, —
ung og gömul fræði:
Tungan þýð og þjóðernið
og þrungin hetjukvæði.

Altaf söngstu íslenzk lög
unaðsljúf og fögur.
Köld og hrjóstrug heiðadrög
hlýnuðu við þær bögur.

Þegar líður lífs á dag
og ljósinu skuggar eyða.
Syngdu við mitt sólarlag
svanur Íslands-heiða!

---

## TIL

## ÞORSTEINS ERLINGSSONAR

á fimmtugs afmæli hans.

---

Hróðrar-jöfur heill sé þér,
haltu völdum lengi!
Margt að syngja eftir er
á Íslands hörpustrengi.

Ennþá berðu heilan hjör
frá hildarleikum skæðum.
Ódauðleikans afl og fjör
er í þínum kvæðum.

Eg hefi margoft af þeim glaðst
örðugan lífs við róður.
Þökk fyrir allt sem um þú kvaðst
okkar gömlu móður.

Þeim fanst sjaldan leiðin löng
ljóðin þín er sungu.
Mýkra enginn áður söng
á okkar feðratungu.

Syngdu vinur, syngdu skært,
syngdu hátt og lengi.
Þú hefir ekki list þá lært
að leika á falska strengi.

---

## Á HELJARDALSHEIÐI.

Djöfulóður hríðarhamur
hellist yfir lög og storð. —
Kveina hraun og klettaborð..
Vopnaslyngur veðra-gramur
vélráð hyggur á og morð.

Slitinn halur hlaupin þreytir
heim á leið í þessum byl,
hann sér varla handaskil.
Engir berir eru reitir,
ekki rofar vitund til.

Kunnur er 'ann hríðarhörkum,
hefir löngum teflt þær við.
En nú eru' ekki gefin grið.



Beinkalinn á berum jörkum
brýst 'ann gegnum fárviðrið.

Þarna grillir hamrahyrnu. —
Huldardröngum líkt það er. —
Efst er klettakróna ber.
Eins og sindur Gláms úr glyrnu
glotti skruggu' um mökkinn fer.

Enn er varla hálfnuð heiðin,
hleður niður kyngi-snjó. —
Áður var þó ærið nóg.
Villugjörn því verður leiðin —
Vonaskörðin næsta mjó.

Hlaupin má 'ann herða betur —
heim í kvöld — það varðar líf!
Bíður heima helsjúkt víf.
Um sumar jafnt og svalan vetur
sem að var 'ans traust og hlíf.

---

Hann kemst ekki hálfspönn lengra,
hefir að kodda mjallar-skafl —
fönn er sæng og fótagafl.

Verður æ um andann þrengra,
yfir stendur lokatafl.

---

Finst honum allt eins og 'ann hvíli
undursæll við brúðar hlið. —
En nú eru' ekki gefin grið.
Íslenzkra fjalla' í fanna-skýli
farandmaður skilur við.

---

Dægrum þremur þetta eftir
þá er komin veðrabót. —
Eygir hvergi auðan hnjót.
Hvarfið þótti fáum fréttir. —
Farandmanns var dáin snót.

---

Hefði það verið heldri maður
hafin mundi viku-leit. —
Aflað manna sveit úr sveit. —
Farandmaður fáefnaður
fjar má liggja kristnum reit!

## GÍGJULEIKARINN.

---

Hálfrökkur húsið fyllir,
hljómgígja strengja-slök,
yzt út í horni hangir
hélustöm og rök.

Handvana halur aldinn
horfir gripinn á. —
Íslitum brúnum undir
augu stara blá.

Eitt sinn til auðs og frægðar
opinn vegur lá. — —
Stýfð var á manndóms morgni
mundin úlnlið frá.

„Hlustiði! Gígjan hljómar“
halur mælti skjótt.
„Séð hefi' ég sextíu' árin
sönglaus um dag og nótt“.

„Nú er ég ungur aftur,
andans búinn dug.
Guðirnir gefið hafa
gígjunni tónaflug“.

---

Hálfmáni bleikur horfir
hrímgan gluggan á.
Ljóðstolin liggur gígja
líki fölvu hjá.

---

## GÖMUL KONA.

Fyrrum var hún falleg björk,
fögru limi búin. —
Nú er hún eins og eyðimörk
öllum gróðri rúin.

## UM KVÖLD.

---

Nú drúpir höfði himinsól
við hafsins bárusæng.
Og einn ég stend og ekkert kemst,
sem Örn með brotinn væng.

En þótt mig svellköld bindi bönd
og banni tíðum flug.
Ég á samt dýrðleg undralönd
og ástar-vor í hug.

Ég sé hvar skugga safnast lið
um sund og dal og hlíð.
Og hinzti geislinn hervæðist
í heilagt frelsis stríð.

Þótt allir skuggar skipi sér
um skálann litla minn.
Ég sæki nýjan sólskins-þrótt
í sjálfan himininn.

---

## NÓTTIN OG EG.

Á brott flýgur dagur en brúnaþung nótt
byltist um landið og hrópar ótt:
„Flýttu þér, flýt þér í bæinn.
Því kunn er ég orðin í orustugný
og einatt ég sigrað hef viðskiftum í
við ljósið og ljómandi daginn“.

Víst ertu máttug, þó veit mín trú
ég vel ei þá skoðun er fylgir þú,
því eilífa húmið ég hata!
Ég sé nú hvar ljómar í loftsins sal,
það leiftur er aldregi skuggi fal
og lánar mér ljós til að rata.

## VÍSA.

---

Um gjörvallan heiminn er grjóti stráð leið,
svo gangan er fjöldanum hörmunga skeið.
Enn sæll er sá maður er sér og skilur
að sorgin er einungis hvirfilbylur !

---

## UNGLINGS-ÞRÁ.

Heim til blárra himin-fjalla
hugur unga sveininn ber.
Þar sem ástardrauma dísin
drottin-fögur unir sér.

Eins og heilög móðurminning
munarklökk og þýð og hlý.
Brosir landið ljúft í óði —
laugað sólskins-draumum í.

## ÞUNGLYNDI.

---

Hornið er meira' en hálfnað,
hugða' ég þó drykkjar gnótt.
Dettur á þessi dökkva,
dýrmæta, langa nótt.

Heyrði ég fyr á hörpu
hugnæm ástarljóð. —
Af strengjunum dular-djúpu
drýpur feigðarblóð.

Hringinn í kring eg heyri
hlegið og leikið sér. —
Dauðann í öllum æðum
ótvírœtt ég ber!

---

## PÉTUR GUÐJOHNSEN

(1812 — 29. nóv. 1912).

---

Með bjartra vona hjör í hönd
þú hófst þitt gönguskeið.
Og hrifinn namstu hugarlönd
við helgra tóna seið.
Þú vaktir okkar ættarþjóð
af eyðimerkur þögn.
Og titra lézt þitt tónaflóð
með töframögn!
Og lóukvak og lækjarnið
þú lagðir í þinn strengjaklið.

Þú brautryðjandi byrsæll varst
og beittir viljans glóð.
Og fána söngsins fram þú barst
til frægðar vorri þjóð.

Þú áttir þjóðlegt afl í sál,
sem ekki hræddist neitt.
Þú hafðir lýð við hljómsins mál
í hópum seitt!
Og Íslands fossa fiðlunið
þú falst í þínum strengjaklið.

Og lögin hljóma hrein og ný —
því hundrað árin þín,
eru' örsmátt brot af öllu því,
er um þinn varða skín.
Frá ysta tanga' að efsta dal
þín óma söngva-ljóð,
sem lindahvísl í liljusal
og löðursflóð!
Og ættlands söngva öldu-nið
þó ófst í þinna strengja klið!

---

## † ÓLAFUR JÓNSSON,

bæjarfógetaskrifari

Langt var þitt stríð — og langur þessi vetur,
lífið á skari — sollnar blæddu undir.
Draumblítt og fagurt var þitt sólar-setur. —
Svefngyðja friðhelg bauð þér opnar mundir,—
flaug með þig brott í ástar-örmum sínum,
eilífðar-rósir græddi' í sporum þínum.

Sjúkdóma-stríðið hug þinn aldrei hræddi —
horfðirðu glaður baráttunni móti.
Hugargull þitt ei heimsins aðkast bræddi,
hafðirðu tíðum siglt í bylgjuróti.
Æskunnar sál í brjósti þínu barstu.
Brosandi hetja' í lífsins stríði varstu.

Klukkurnar hringja — gröfin búin bíður.
Býður þér ættjörð friðar-rekkju sína.



Andvari hreinn um loftsins sali líður,
leggur 'ann sveig á dánar-hvílu þína. —
Svífðu þá braut af vængjum vorsins borinn.
Vinirnir klökkir þakka gengin sporin.

Mál var þér hvíldar — þung var þrauta-tíðin,
þörf var á breyting kappa ferða-lúnum.
Nú er þá enduð hinzta vetrarhríðin —
himininn skír og röðul-bros á túnum.
Sofðu í friði — senn er lokuð gröfin,
sólroða-draumar gylla ókunn höfin.

---

## † GUÐJÓN GUÐMUNDSSON

búnaðarfélags ráðunautur.

---

Íslenzkur varstu einbeittur þinn dugur,
ólgandi starfsblóð svall í þínu hjarta.
Íslenzkur var þinn orkufulli hugur,
öruggur gekstu sigurvegu bjarta.
Skínandi trú á landsins veg og veldi
veginn þér lýsti fram að hinzta kveldi.

Hart er að missa menn á bezta skeiði,
menn sem að höfðu kraftinn til að berjast.
Sárt er að hlaða sonum ungum leiði,
sennunni í er fóstran þarf að verjast.
Nornir, hvers eigum allir vér að gjalda?
Ættjörðin þurfti' á liði sínu' að halda!

Þökk fyrir starfið, margir sárt þín sakna,
svo er um hvern, er reyndist góður drengur.

Eigi vor þjóð úr roti sínu' að rakna,
rauntryggra sona njóta þyrfti' hún lengur.
Þökk fyrir sporin, þau í heiðri geymast,
þau vissu fram, og skulu aldrei gleymast.

---

# SAMSÆTIS-LJÓÐ

Til Jóh. Jósefssonar og félaga hans.

---

Látum hörpunnar klið
óma háborðið við:
Oss er hugljúft að fagna' yður vinir í dag!
Enn er hreint yðar mál,
og í hugprúðri sál
Ljómar heima-lands tign með sinn víkingabrag

Vinir, hendin er hér!
og vorn hlýleik hún ber,
þótt ei haldin sé veizlan að stórmenna sið.
Það skal geymt sem er gert —
hvorki grafið né skert,
heldur göfgað með sæmd okkar þjóðernis-mið.

Syngjum léttir í lund,
og hin líðandi stund
verði ljósnisti fagurt í huganum geymt!
Eflið frægð okkar lands,
vinnið framtímans kranz,
jafnvel fegurri' í reynd en að nokkurn gat
dreymt!

---

## TIL JÓHANNESAR JÓSEFSSONAR.

---

Heill sittu með oss
hrausti þulur —
íþrótta-kóngur
Íslendinga!
Var eigi fyr
vor á meðal.
vinur og gestur
velkomnari.

Snemma bráðgjörr
þú bjóst að kanna,
lönd lítt þekt
og lýðfylkingar.
Barðist þú við blámenn
og berserki,

með krafti Héðins
en Kára fimi.

Frá fóstru vorri
þér fylgdu' að heiman:
norræn kyngöfgi
og kappalund.
Því eru öll
þín afreksverk
ótvírætt háð
í Íslands nafni.

Þótt enn sértu eigi
auðgur að fé; —
ertu samt auðgari
all-mörgum.
Átfylgi nýtra
áttu drengja.
og ást ágætrar
eiginkonu!

Gunnreifur jafnan
þú gekst til leika.
Lýstu langeldar
ljúfra vona.

Kom þú sigrandi
frá sennu hverri,
með hækkandi hróður
vors helga lands!

---

## SILFURBRÚÐKAUPS VÍSUR.

Til Magnúsar Jónssonar og konu hans
í Winnipeg.

---

Vér fögnum yður öldnu hjón
af instu hjartans rótum.
Þið standið ung í anda og sjón
með allt á traustum fótum.

Um aldarfjórðungs áraskeið
þið elskað hafið saman.
Og verndað grænan vonameið,
þótt væri' ei alltaf gaman.

Þið geymið enn þá göfugt mið,
þótt grána taki hárin.
Með glöðum huga genguð þið
í gegnum landnáms-árin.

Með íslenzkt hjarta, íslenzkt blóð
þið unnuð hugi manna.
Með trygð við feðra tungu' og þjóð
og trú hins góða' og sanna.

---

Svo bergjum gullna gleðiveig
og göngum fram í dansinn.
Vér leggjum þenna litla sveig
úr ljóði' í brúðarkranzinn.

---

## MINNI
## JÓNS SIGURÐSSONAR

17. júní 1908.

---

Vér munum hann einatt en ekki þó sízt,
er ógæfu' að höndum oss ber.
Og tvístraðir berjumst vér einn og einn,
gegn erlendra valdsmanna her.

Í framtíðarbyggingu fósturlands síns
hafði 'ann fegursta grunnsteininn sett!
Sú þjóð sem gat alið jafn ágætan mann
hún á sér þó tilveru-rétt!

Á baráttu okkar um æfiskeið sitt,
hafði 'ann einkennið landvarnar sett.
Hvað mundi' hann segja ef sæi hann það
að vér seldum vorn Íslendings rétt?

Hvort haldiði' að Jón mundi leggja sitt lið
til að lögfesta oss klafann um háls?
Nei, vér skulum mótmæla með honnm enn,
og móðirin skal vera frjáls!

Nú hjá oss 'ann blundar í heilagri mold, —
því að helg er sú jörð sem hann ól.
En inst inn í hjarta hvers óglapins manns
hann enn skipar forseta-stól!

---

## TIL
## ARINBJARNAR S. BARDAL.

**Flutt við heimkomu hans til Winnipeg úr Íslandsför haustið 1914.**

---

Velkominn heim að heiman —
af heilagri fósturgrund!
Þú kemur með móðurkveðju,
sem kætir oss öll í lund.

Var ekki sólin sama,
er signdi tindsins brún.
Og fagurt eins og í fyrra
um fjörð og dal og tún?

Var ekki ljúft að líta
um Ljósavatns goðans ból.
Sat þar ei fornhelg Saga
á Sökkvabekks tignarstól?

Sástu' ekki hvernig sólin
seiddi' í töfrakoss,
bergkonung Bárðdælinga —
brimþrunginn Goðafoss.

Þú sást bæði sumarskrúðann
og svipþung haustins él.
Fagnaði ei fóstran aldna
fundnum syni vel?

Velkominn heim að heiman,
með heila brynju' og skjöld.
Hendin er hérna vinur —
hafðu það gott í kvöld!

---

## † JÓN ÞÓRÐARSON, KAUPM.

(undir nafni ekkjunnar).

---

Hlusta' eg á eigin hjartaslátt
með harmi feikna sárum.
Mér finst eins og gráti hafið hátt
og himininn rigni tárum.

Hjartans vinur þú varst mér allt —
vetrar og sumarsyndi.
Án þín var lífið autt og kalt,
sem einstæðings-blóm í vindi.

Gullnar vonir sem geymi ég,
græddirðu' í mínu hjarta.
Ljósgeisla yfir liðinn veg
lagðirðu marga' og bjarta.

Sofðu svo æfiyndið mitt
við ættlandsins hjartarætur.
Grátandi, vígslugullið þitt
geymi' eg til hinztu nætur !

---

## TÓNNINN.

---

Tíðrætt varð um tóninn þann
tildurgjörnum sprundum.
Og jafnvel út um allan bæ
var um hann talað stundum.

Oddborgurum ekki sízt
út úr þótti' hann skera.
Og sumir hinna sönglærðu
sögðu' hann falskan vera.

En allir höfðu' í einu rétt,
er um hann feldu dóma;
að samræmi var hann ekki' í
við alla þekta hljóma.

En enginn virtist að því gá,
þótt allir þættust snjallir.
Að verið gat 'ann himin-hreinn,
en hinir falskir allir.

---

## KVEÐJA.

---

Sólarþrungni sumarblær á svanavængjum,
fljúgðu heim um hafið víða,
heilsaðu lundum grænna hlíða.

Þrýstu kossi á björk og blóm sem bíða heima
Og vildu fegin vita og heyra
um vor og sólskin dáltið meira.

Andaðu þreki, þori' og dug í þróttarvana.
Öllum heima áttu að boða
andlegs þroska morgunroða!

---

## SIGLING.

Svífur fley um sævar-völl,
seglin stormar benda.
Hinstu kveðju hýrleit fjöll
hjarta mínu senda.

Kuldabólstrar hefjast hátt —
himin þekja blíðan.
Gola svöl úr austan átt,
ýfir sæflöt víðan.

Þoka grimmleg girðir land,
glittir hvergi tanga.
Svalkalt fléttar silfurband
sær um skeiðar vanga.

Hikum ei þótt ógni mar, —
ekkert fleyið bagar.
Að skýjabaki bíða þar
brúðar-klæddir dagar!

---



## UM FÖÐURLADNS SVIKANN.

Á óskastund alveg 'ann hitti —
öðlaðist margþráð hnoss.
Því fyrir að fjötra sitt ættland
fékk hann riddarakross!

## LENGI SEIGUR.

Vitrari töldust margir menn,
en maðurinn var ódeigur.
Af axi hverju uxu þrenn
af því að hann var seigur.

Hann vildi betur enn margir menn —
í manninum reyndist veigur.
Og hann á fagra hugsjón enn,
því hann var lengi seigur.

Hann á að vinna handtök enn,
því hann er ekki feigur.
Hann elskaði hreinna' en aðrir menn —
og af því varð hann seigur!

## MORGUN-ÞOKA.

Líttu' á hve ljósgeisla-brimið
um lognþoku-hjúpinn fer gegn.
Svo umhverfis allt saman verður
áþekt og gulldropa-regn.



## MINNING.

Á köldum heiðum upp við ólumst bæði,
við elfarsöng og djúpan fossa-nið.
Og sungum hrifin okkar æskukvæði,
um ást og trygð og blessað sólskinið.

Ég man við gengum saman langar leiðir,
í leiðslu-draum um sumarkvöldin hljóð.
Og okkur sýndust allir vegir greiðir
og allt svo bjart og veröldin svo góð.

Og þú varst einatt drottning minna drauma,
sem dagsbrún heið var fagra brosið þitt.
Og upptök þeirra allra sólskins-strauma,
sem yl og ljósi fyltu hjarta mitt.

En vorið hvarf eins fljótt og fleygist straumur,
og feikna-bliku dró á himininn.
Og endurvakinn, löngu liðinn draumur,
mér lætur falla brennheit tár um kinn.

---

Um sumarstund, þá enginn heyrist óður —
í örmum nætur blundar fold og lá. —
Við kirkjugaflinn krýp ég dauða-hljóður
og kyssi blómin leiði þínu á.

---

## BRÚÐURIN FYRIR HANDAN.

---

Með fangið fult af vonum hann lagði sína leið,
um löginn silfurtæra á ofursmárri skeið.
Hann beið ei lengi byrjar, því byr var í hans
sál
og báruniðinn þýddi 'ann sem voldug hvata-
mál,
því brúðurin beið fyrir handan.

Hann vissi' að yfir hafið var leiðin afar-löng,
og líka reyndist mörgum svo hættuleg og
ströng.
En trúin hans var einlæg og öll hans dýpsta
þrá,
var innileg og sterk eins og geislinn sólu frá,—
því brúðurin beið fyrir handan.

Þótt Ægir brúnir ylgdi og yfir grúfði nótt,
hann áfram glaður kepti með nýjan vona-
þrótt. —
Í unnustans huga býr altaf sólar-vor
og örugg trú á sigur og kraft og fjör og þor,
því brúðurin vakir og bíður.

Og þó að þrumur dynji og þrútni loft og sær
og þoka geigvæn ógni 'ann beint í horfið rær.
Því bak við biksvört tjöldin hann eygir inn-
dælt ljós,
þar endurþroskuð glitrar hans bernsku
drauma rós —
Þar brúðurin elskandi bíður!

---

Heill sé þeim sem óttast ei hafsins feikna gný,
og hræðist ei hin stormþrungnu örðugleika ský.
Því jafnvel þó hann dauðanum mæti' á miðri
leið,
í meðvitund hans síðustu lýsir dagsbrún heið,
því brúðurin ein á þar óðal!

## SÓLVEIG.

---

Sólveig ég sá þig um morgun
á sólgyltum bala;
vökvandi brosfögur blómin,
í blátærum laugum.
Daggir þér drupu af hvarmi,
sem dropar úr laufi.
Rósdaggir ástar og yndis
og alhreinnar gleði.

Bezt samt þú hlúðir þeim blómum,
er bjargráðum þroti n,
skjálfandi aldur sinn ólu
á íslenzkum heiðum.
Smælingjum öllum þú unnir
af einlægum huga.

Þú varst öræfa-börnunum ætíð,
sem elskandi móðir.

---

Þú lékst þér að brosandi blómum
um blæþýða morgna.
Og söngst eins og svanur á vori
um sælu og yndi.
Hreint var þitt hjarta sem mjöllin,
en hlýtt eins og sunna.
Og röddin sem blíðvakin bylgja
í bergmálsins óman.

---

En nú ertu góða mín gengin
i grafkumblið lága.
Og augun þín ómælis-þýðu,
alstirð og brostin.
Þau brosa mér einum þó ætíð
um úrsvalar nætur.
Og senda mér sárblíða geisla
sælu og hrygðar!

---

Sólveig ég sakna þín tíðum
en söknuðinn létta,

sólfagrar sakleysis-myndir
frá samveru þinni.
En hitt er ei kyn þótt mér hrynji
harmdögg af hvarmi.
Þá sól minna sælustu drauma
er sigin í ægi.

## ÁSTA.

---

Ást þína veittu mér alla —
ekkert nægir hálft!
Lífið er aldautt án ástar —
því ástin er lífið sjálft.



# ÁSRÚN.

Jafn kynlega ungmey ei áður ég sá,
en elskað ég gat hana þó.
það hvíldi' yfir enni og augnanna hyl,
svo undarleg steingjörvings-ró.

Hún virtist mér stundum sem marmara-mynd,
en málið var hvelt eins og stál.
Hver hugsun var köld líkt og hafísa-þök
og hrein eins og frostrósa sál.

## ÁLFRÚN.

Hún sýndist að jafnaði hæglát og hljóð —
sem hugur um bæinn hún leið.
Í svipnum var ástþýður alvörublær,
hvert orð líkast molltóna-seið.

Ég sá hana glaða, þá sýndist hún mér
eins og söngmær í fagnaðar-leik.
Og síðar ég leit hana' í syrgjenda-hóp —
hún var söm, en þó dálítið bleik.

Ég gleymi því aldrei hve góðleg hún var —
hve göfugt og blítt hennar mál. —
Það lagði frá augunum læknandi yl
og ljós inn í smælingjans sál!

## TIL ÁSTU.

Mig langar sólgeisli að senda þig
í svolitlum erindum fyrir mig,
núna einmitt á stundinni örlítið niður í bæinn.
Ég get skotið því að þér áð'r en þú fer —
þú átt að skila kossi frá mér
til hennar Ástu á afmælisfagnaðar-daginn.
Og framvegis áttu að ylja' og lýsa
æfi hennar stig.
Elsku góði geisli minn,
þú gerir það fyrir mig!

## SVARIÐ.

---

Eitt orð — eitt orð er allt sem ég vil fá, —
eitt orð af þínum mjúku rósavörum.
Þín augnalind er allt sem ég vil sjá —
hin eina veig er svalar minni þrá.
Því bíð ég órór eftir þínum svörum. —
Það orðið veldur æfi minnar kjörum!

Mér finst ég sjá í augna þinna yl,
það allt sem þráði ég *í* svörum skjótum.
Ég heyri glögt þíns hjarta undirspil,
og held að orðin falli mér í vil,
sem kenni' ég óms af Eólshörpu nótum.
Er þagnargull und þínum tungurótum?

Mér finst ég eygja inst í þinni sál,
þá einu ráðning bernskudrauma minna.

En hendin sagði hjartans leyndarmál. —
Og hrifinn drekk ég ástarinnar skál!
Ég bergi sæll af bikar vara þinna. —
Nú vil ég ekki veröld æðri finna!

---

## MINNI ÍSLANDS.

(Winnipeg, 1. jan. 1915)

Þar sem nyrst í Atlants-álum
öldur stíga léttan dans,
vakir yfir vonum ungum
verndargyðja sögulands.
Búin týgjum elds og ísa
á þar heima göfug þjóð,
sem á enn í æðum sínum
óspilt, norrænt kóngablóð!

Tignarbjarmi himin-heiður
helgri stafar ásýnd frá.
Risafjöll í fanna-skikkju
faldinn teygja í hvolfin blá.
Eins og rödd frá æðra heimi
ómar fossins huldulag;

þar sem glaðar daladísir
dreymir langan sólskins-brag !

Hérna vestra Ísland áttu
eins og heima göfugt blóð.
Þú átt okkar allt hið bezta:
afl og þroska, söng og ljóð.
Þú ert okkar eina móðir:
æfi hvar sem ljúkum vér.
Heim í faðminn mjúkra mjalla
mæddur hugur varpar sér !

---



# EFNISYFRLIT